# Um þá heilögu kvøldmáltíð.

Það er allkunnugt, að Guðs Orð og Sakramentin eru í Christindómsins frædibókum, vor á medal, almennt kølluð náðarmeðøl, edur þvílík meðøl, í hvorjum Guðs náð frambýðst og veitist sannydrandi syndara. Meðal þessara er Guðs orð, líkasem dagligt húsmeðal, fyrir alla Christna, á øllum tímum, hvørs aldrei má án vera, fyrir nokkurn þann, er stunda vill eptir Guðs náð og sáluhjálpinni. En skýrnin og kvøldmáltíðin eru sem hátídameðøl, edur tvær hátídir, sem øllum Christnum er boðið að halda, Guði sínum og Frelsara til æru; en þó að eins á vissum tímum. Skýrnarhátíðin heldst að sønnu ekki nema einusinni af hvørjum Christnum fyrir hans eigin persónu, sem alkunnugt er; nefnilega þegar maður — úngur edur gamall — innvígist til að verða límur Christs kyrkju, og í fyrsta sinni vinnur hollustu eið, þessum sínum andliga kóngi. En af því eiður þessi á að vera manni svo heilagur, að hann aldrei gleymi hønum, alla sína lífstíð, þá hefur vor himneski konúngur Jesús Christur stiptað eina aðra hátíð, edur hátíðligt meðal, til — ásamt Guðsorði — að vekja hjá oss endurminníngu vors skýrnar-sáttmála, og er það sú heilaga kvøldmáltíð, hvørja øllum þeim, er skýrnar eiðstaf sinn þekkja og meta, ber optar enn sjaldnar að halda.

Því skyldu allir Christnir hafa þá heilögu kvöldmáltíð í mestu virdíngu; þar víst er um það, að hún er eitthvört það allra ypparsta og heilagasta atriði þeirrar sönnu evangelisku Guðs dýrðkunar, í hvörri það gjörvalla endurlausnarverk verður oss ekki einasta fyrir sjónir sett, heldur og kröptugliga innsiglað. Í fám orðum: allt hvað trúarbrögð vor hafa í sér heilagt og leyndardóms-fullt, mætir oss, sem í einni summu, í þessari einustu heilögu athöfn. Þetta blasir bert fyrir augum, ef vér setjum oss fyrir sjónir, svovel höfund þessarar heilögu stiptunar, sem meðöl þaug er þar framreiðast, og loksins þaug ýmisligu mikilvægu augnamið, sem máldrykkja þessi hefur.

Hvað þá viðvíkur því fyrsta, eður hvör höfundur sé, þá vitum vér, að hann er einginn annar enn Jesús — sá náðugi og mannelskufulli Jesús — hvör eð hrópar til allra náðþyrstra sálna, fyrir Salómons munn (orðskv. 9), seigjandi: „komið híngað og etið mína fæðu og drekkið mitt vín, sem eg hefi skeinkt á fyrir yður!" og aptur (ljóðkv. 5): „etið, mínir vinir! drekkið, og verið glaðir, mínir elskanligir!" Hvör sála sú, er þetta andaktuliga yfirvegar, getur undir eins gjört þá ályktun, að það sé einhvör hin allrastærsta æra og velgjörð, að meiga til þessarar máltíðar gánga.

Lesi maður þann 18da kap. í 1tu bók Móysis, mun hann sjá, að Abraham áleit sér yfirmáta mikla virdíngu veitta, þegar hann fékk þá æru, að meiga, sem annar þénari, þjóna Drottni til borðs; hvörsu stór er þá æra sú, sem hinn trúaði nýtur, hvörjum leift verðar að setja sig sjálfann að borði síns Guðs?

Þessi æra geingur vissuliga nærst þeirri, sem útvaldir njóta munu í Lambsins brúdkaupi ad eilífu. Ad meiga vera géstir vid konúngsins bord, þykir stór æra; en ad meiga vera géstur vid Guds bord, er æra yfir alla æru. Þad bordhald er hátídligra, enn þó sjálfir einglar og höfudeinglar hefdu bodid oss til gésta. Þeir eru þó sképnur eins og vér; en hér er skaparinn sjálfur, sem sképnum sínum heimbod gjörir. Enda svarar hér þá hvad ödru: hátign heimbodsherrans og heilagleiki bordréttanna.

Því hvílikir þeir séu, viljum vér — í annann máta skoda. Hvorjir eru þá bordréttir þessir? Med náttúrligum augum sjáum vér ad vísu ekkért annad enn lítid braud og vín; en med trúarinnar — séu þaug annars af Guds anda upplýst — sjáum vér vorn Lausnara Jesúm sjálfann, med öllum þeim nádargjæðum og gnógtum, sem hann oss í krapti þess nýa sáttmála, afrekad hefur; já, vér sjáum hann ekki ad eins, heldur medtökum hann ogsvo. „Takid og etid, þad er minn líkami; drekkid, þad er mitt blód!“ segir hann sjálfur, med berum ordum. O eina himneska máltíd! lángt dýrmætari sjálfri höfud-einglanna fædu! Sjá kristin sála, hvorsu eðallundadur og örlátur vid þig, ad þinn Frelsari Jesús er! Hann hefur á sinn hátt meira vid þig, enn sína heilögu eingla; enda hefur hann og þína, en ekki þeirra náttúru uppá sig tekid. Eda — hvad géfur hann þér í máltíd þessari? Svar: sinn allraheilagasta líkama og blód! En undireins og hann géfur þér þetta, veitir hann þér fullkomna fyrirgéfníngu allra þinna synda, vegna sinnar fórnfæringar

á krossins gálga. Hérmed styrkir hann og þína veiku trú; og meddeilir þér, á þennann hátt, nýum andans kroptum, til ad strída a móti syndinni; hann fullvissar þig um elsku síns fodurs, og um óyggjanligann rétt til arfskiptis med þeim heilogu í ljósinu; í einu ordi, hann sameinar sig þér á þann hátt, ad þú sagt gétur med Postulanum: „Nú lifi ekki eg framar, heldur lifir Christur í mér!" Já hefdi Jesús — segir í þessu tilliti einn frómar lærifadir — hefdi Jesús haft nokkud ágjætara til, enn sjálfann sig, mundi hann þér þad géfid hafa.

Nú svo sem heilagleiki bordréttanna sýnir hátign máltídar þessarar, svo sýnir og — í þridja máta: augnamid hennar og tillit þad eingu sídur; þá tilgángur Jesú, med innstiptun hennar, var sérdeilis í þessu þrennu falinn. Ad hún skyldi vera

a) Endurminningar-máltíd; sem er deigi ljósara af sjálfs hans ordum, er hann mælti, þá hann innsetti hana; þar hann sagdi, ekki einusinni, heldur tvísvar: „gjørid þetta í mína minníngu!" En hvørrar sinnar velgjørdar hann vill ad vér sérdeilis minnumst, sýna ord hans líka svo berliga, er hann brúkadi vid útdeilingu hinna sýniligu medala, segjandi: „Þetta er minn líkami, sem fyrir ydur verdur géfinn; þetta er mitt blód, sem fyrir ydur úthellist." Hvar af audsjed er, hvor meiníng hans verid hefur; þessi nefniliga: svo opt sem þér, hvør med ødrum, gángid til þessarar heilogu máltídar, svo opt skulud þér ydur fyrir sjónir setja mína óendanliga elsku, sem og ydur sýndi, þegar eg med minni blódugu pínu, og kvalafulla dauda, opn-

adi ydur veg til eilífs lífs. En þess er þó vel ad gæta, ad slík endurminning hlýtur ad vera full af elsku og þacklæti; annars er hún ógild, og verdur ávartarlaus. Postulinn Páll — madur sá, hvør svo vel sögu innsetníngar, sem leyndardómsfulla merkingu þessarar heil. máltídar hafdi sjálfur af Drottni med-tekid (1 Cor. 11, 23) — seigir oss þetta med ljósum ordum, þegar hann áminnir oss þannig: „svo opt sem þér etid af þessu braudi og drekkid af þessum kaleik, skulud þér kunngjöra dauda Drottins!“ Pad er sem hann segdi: þér skulud med þakklátum hjörtum og fagnadarfullum ordum veg-sama Jesúm fyrir þad hann dó ydar og alls heimsins vegna; já dó sem syndafórn til fridþægíngar vid Gud. Og þetta er líka þad, sem sérhvør til nádar tekinn kristinn madur gjörir mikid fúsliga; hann hrópar þessvegna upp af hrærdu hjarta: ó minn Jesú! þús-undminni er eg allri þinni miskun og trúfesti, sem þú mér, þínum vesæla þræli, audsýndt hefur! Allt hvad í mér er, lofi þig þar fyrir! mitt hjarta med sinni elsku, mín túnga med sínum ordum, og minn lifn-adur med öllum sínum athöfnum! En framar skal Jesú kvöldmáltíd vera öllum kristnum mönnum —

b) ein sáttmála-máltíd, sem flýtur af því ádursagda; því þar sem Jesús, med sinni pínu og dauda, keypti oss til handa rétt til eilífs lífs, hvørs réttar vér njótum ad eins med því skilyrdi, ad vér unnum, hlýdum og þökkum þessum vorum velgjörara af öllu hjarta, og kappkostum ad halda trúliga sátt-mála þann, sem vér vid hann í skýrninni bundum, þá hefur þessi heilagi og elskuríki gestgjafari fullann

rétt til ad heimta af oss bordgéstum sínum, ad vér hann sáttmála, sem vid hann inngeingid höfum, af allri hreinskilni höldum, og séum hönum, sem vorum Gudi og Frelsara trúir, í kjærleika og hlýdni, allt til daudans.

Pessa kröfu finna öll Guds börn mikid sanngjarnliga, hvörsvegna haug, med hreinskilnum og fúsum hjörtum, vinna sínum Herra Jesú þessa heitstreingíngu: „eg hefi svarid og vil enda þad, ad eg réttlætisdóma Drottins míns Jesú Christs skal trúliga allt til daudans kappkosta ad halda!“ (Ps. 119). Loksins er

c) þetta heilaga sakrament innsett til ad vera **kjærleiks** máltíd.

Sá elskufulli Jesús vill aldeilis ekki, ad vér færum ad hans bordi annarslags enn elskufull og fridþægd hjörtu, svovel í tilliti mannanna, sem Guds. Til þeirra, sem geyma hatur og óvild til síns náúnga í hjarta sér, hrópar hann (Matth. 5) seigjandi: „**Far þú og sættu þig fyrst vid þinn bródur, og kom þá sídan ad offra þinni gáfu; já, vertú snarliga samþykkur þínum mótstödumanni!**“ Þetta veit eg, og þetta gjörir þessvegna sérhvört saunarligt Gudsbarn, og kémur því ad bordi síns Endurlausnara, med þvílíku hjarta, sem tæmt er frá öfund, hatri og óvild til síns náúnga, og gétur því, án mótmæla sinnar samvitsku, sagt: „Herra Jesú! fyrirgéf þú mér nú mínar syndir, eins og eg fyrirgéf mínum skuldunautum!“

Sjáum nú, kristnir menn! sjáum: þetta eru atridi haug, sem vér naudsýnliga, og til hlýtar skilja

hljótum, ef vér viljum verdugliga til Jesú máltídar geingid géta, og hann oss ekki til dóms áfellis medtaka. Því hvornig má sá vyrda hana réttiliga, sem ekki þekkir hátign hennar og heilagleika, og hvörsu má hann réttiliga ella géta gjört greinarmun á henni og annari fædu? Nú þar sem vér skyljum hennar yfirmáta stóru hátign og heillariki, skiljum vér undireins, hvörsu óeptirgéfanlig skylda vor þad er, ad tidka máltíd þessa og til hennar ad gánga. Ad vanrækja þad væri hid allra stærsta óþakklæti vid vorn guddómliga Endurlausnara, er berliga sýndi, hvörsu snaud ad hjörtu vor væru af elskunni til hans, og hvörsu litils vér mettum hans allrastærstu velgjörd, oss og öllum heimi til handa, er hann audsýndi med offran síns likama og úthellingu síns blóds á krossinum, til fyrirgéfníngar syndanna. Já, slíkt væri ekki adeins rammasta óþakklæti, heldur og skammarligasta skyldu yfirtrodsla; þar vér af innsetníngar ordunum berliga skiljum, ad vor kjæri Frelsari hefur einganveiginn sett þad í sjálfra vor vald, hvört vér vildum til hans máltídar gánga edur ekki, heldur hefur hann fylliliga skipad oss þad; „takid og etid," sagdi hann, sem og: „drekkid allir hér af!". Ord þessi innihalda víst fortakslaust bodord. Hvar fyrir, ef vér vanrækjum þessa heilögu máltíd, þá — fyrst, yfirtrodum vér eitt af Jesú bodordum; og þad þvílíkt eitt, sem hann gaf oss á þeim markverdasta tímapúnkti lífs síns, rétt skömmu ádur enn hann ætladi ad géfa sjálfann sig til syndafórnar fyrir vorar og alls heimsins sakir. Já, vér forsmáum þá hans sídarsta testament, er hann oss til blessunar gjördi, og gjörum oss hreint

ómakliga allra þeirra gjæda, sem hann í því sama oss veitt hefur; svo þad er þá þaraf audséd, ad vér høldum blód sáttmálans almenniligt, og svívyrdum anda nádarinnar (Ebr. 10); hvørsvegna vér meigum vid því sama straffi búast, sem þeir feingu, er forsmádu brúdkaup þad, er sá himneski konúngur gjørdi syni sínum (Matth. 22), og er hrædiligt til þess ad hugsa. Því þó Drottinn Jesús hafi ad nokkru leiti sett í vort vald, hvørsu opt vér skulnm til þessarar heilögu máltídar gánga, hefur hann samt einganveiginn sett hitt í vort sjálfrædi, hvort vér til hennar gaungum edur ekki. Já, af ordum hans er enda audskilid, ad hann vill vér gjørum þad optar enn sjaldnar. Hvørsvegna ad á medan Christs kjærleiki var ennú ekki tekinn ad kólna í hans játenda hjørtum, — nefniliga á fyrstu øldum kristindómsins — er af søgunum ad ráda, ad kristnir tidkad hafi máltíd þessa, á hvørjum Drottins deigi; en eptir þad stundir framlidu, og hjørtu manna tóku ad fyllast af heimsins elsku, vard tídkan hennar æ meir og meir sjaldgjæf; og á undanfornum øldum, — þegar vantrúin var tekin sem mest ad drottna — lagdist tídkan hennar nærfeldt ad øllu leiti nidur, hjá sumum þeim, sem þó létu sig kristna kalla.

Þetta var ad sønnu, og er anmarki og afleidsla daudrar trúar yfir høfud; en einkum eru þar fyrir utan tvær troppur, sem vantrúin — er ver upp af því eitrada sædi daudrar trúar — hefur yfir ad fara, til ad stíga nidur í afgrunn þad, hvar dýrmæti og naudsýn þessarar vors Jesú sidurstu innstiptunar verdur einkis metin, og hún sjálf þessvegna rétt sem

forsmád. Hin fyrri trappan er sú, þegar madur álitur stiptun þessa eintóma minníngar máltíd hans velgjörandi pínu og dauda vor vegna, en trúir ekki, ad hún þar ad auki neitt yfirnáttúrligt í sér hafi, framar enn þad sem augun sjá og munnurinn smakkar; svo menn gjöra þessi Jesú ord: „þetta er minn líkami; þetta er mitt blód", ad rádgátu og þrætu efni fyrir kristna; svo sem hann blessadur skyldi hafa med þeim meint annad, enn hann mælti, hvar af vyrding fyrir stiptun þessari hlýtur stórum ad minka; auk þess sem þad opnar dyr til ad reingja og svo þann ordretta skilning annara Jesú yfirnáttúrligu trúarlærdóma; hvörsvegna og, ad svo margir hafa af þessari tröppu stigid leingra nidur, edur á hina adra tröppu vantrúarinnar, í tilliti svo vel Jesú fórnfæringar augnamids, sem í tilliti hans kvöldmáltídar. Því þegar madur fyrst ekki vill bókstafliga trúa þessum hans ordum: „þetta er minn líkami; þetta er mitt blód", heldur af eiginn mindugleika setur „þýdir", í stadinn fyrir „er", verdur hönum miklu hættara vid enn ella, ad snúa eins út úr þeim Jesú ordum, sem á eptir koma: „fyrir ydur géfst og úthellist til syndanna fyrirgéfningar", og skjóta, frá sjálfum sér, inní þessari meiníngu: „til stadfestingar lærdóminum um syndanna fyrirgéfningu;" og þá er nú vantrúin nærri búin ad ná sínu fullkomna nidurstígníngar takmarki, í ríki myrkranna konúngs. En þegar svo lángt er komid — og þó miklu skémra væri — er sídst ad furda, þó vyrdingin fyrir þessari Jesú kvöldmáltídar stiptun taki ad verda á förum; enda hefur þad, eins og eg

sagt hefi, sýndt sig á undanförnum vantrúar öldum. Því þó hjátrúin — sem á páfadómsins öldum drottnaði — spillti líka magnlíga adaltilgángi þessarar blessudu Jesú innstiptunar, vard hún þó í rauninni aldrei eins skadlig og vantrúin; því hjátrúin setur ad eins sannleikans ljós undir mælíask, en vantrúin útslökkur þad. Nú þar sem hjátrúar skýlan var — med endurbótinni — tekin burtu frá sannleikans ljósi, fyrir augum vorum, þá vörum oss í Guds nafni vid vantrúnni, ad hún slökkvi ekki þad feingna ljós aptur fyrir oss, edur ad daud trú komi oss til ad byrgja sjálfir augu vor fyri því, þó vér ekki á þad sjálft, med vantrúnni, berlíga rádunst. Þessvegna, svo sem vér þá trúum, eptir bókstafnum, frómlíga ordum vors Jesú, í hvörutveggja tilliti; nefnilíga ekki einúngis því, ad hann med offrun síns líkama og blóds, hafi meira ad verkum gjördt, enn einskostar ad stadfesta lærdóm sinn um syndanna fyrirgéfníngu, heldur og hafi keypt oss hana virkilíga til handa, hjá sínum fodur, þó svo framt þessi vor trú er full af elsku og hlýdni honum til handa; já svo sem vér trúum ekki ad eins þessu í tilliti augnamids Jesú pínu og dauda, heldur og svo hinu, í tilliti hinnar heilögu kvöldmáltídar, ad hún ekki sé einasta stiptud í endurminníngu þessa hans ómetanlíga velgjörníngs, heldur og þar ad auki, ad oss veitist í henni yfirnáttúrlig hluttekníng, í þessa hans fridþægíngar offurs verulígu medölum, nefnilíga hans blessada holdi og blódi, sem oss þar, í og med braudi og víni, eptir hans ordum, meddeilist; fyrst vér nú, kjæru vinir! trúum þessu, seigi eg, hvörutveggju, svo vel í tilliti náttúru Jesú kvöldmáltídar,

sem í lilliti náttúru hans friðþægíngar, þá væri það svívyrðiligasta forakt bæði við stiptarann og stiptunina, ef vér forsómum að tíðka þessa heiløgustu máldrykkju; já tíðka hana með besta undirbúníngi og hjartanligasta þakklæti, þessum vorum allrastærsta velgjørara til æru, og til að viðhalda þarmeð opinberligri viðurkénníngu þessa hans háleitasta velgjørnings, að hann fórnfærði sjálfum sér Guði til sætligs offurs, í vorn stað; og til þess, með dæmi voru, að upphvetja sem flesta, vér gétum, til að fylla flokk þeirra, sem hann dýrkka í anda og saunleika.

Nú er það ekki einúngis skylda hlýðninnar við þetta Jesú boðorð: „etið og drekkið — gjørið þetta í mína minníngu!", sem gjørir vanrækt Jesú kvøldmáltíðar eina af þeim stærstu syndum móti stiptara hennar, sem vorum Guði, konúngi og allrabesta velgjørara, heldur og í annann máta, sviptum vér sjálfa oss þar á ofan því allra besta sálargagni. Því ekki hefur Jesús innsett máltíð þessa einúngis sín vegna, til að láta með hennar haldi heiðra sig, af sínum trúarjátendum, heldur hefur hann eingu síður gjørdt það þeirra vegna; þar hann í og með máldrykkju þessari veitir þeim ómetanlig andlig gjæði, einhvør þaug bestu sem til eru á himni og jørðu, og hvørra jafngildi ekki fæst undir sólu né ofar.

Hann seigir sjálfur, í einu orði, hvør þessi gjæði séu: „þetta er minn líkami, þetta er mitt blóð," seigir hann. Vér sem trúum þessum Jesú orðum einfaldliga, þar vér í þeirra bókstafliga skilníngi finnum ekkért óverdugt hans hátign, né ómøguligt hans almætti; vér, seigi eg, sem svoleiðis trúum,

sinnum í máltíð þessari ekki einúngis einhvörn stærsta leyndardóm, heldur og guðdómliga hátign, ómetanligt dýrmæti, og allrar blessunar uppsprettu. Því þar sem Jesús Kristur er hér ecki adeins á stakligasta hátt persónuliga nálægur, heldur þar að auki, svo sem frumkvöðull og aðili þessarar heilögu offurmáltíðar, gefur oss virkiliga að eta og drekka af því sama offri, hvört hann eittsinn svo sem vor ypparsti prestur frambar fyrir Guð í voru stað, nefniliga sjálfs síns eigin líkama og blóði, hvörri fædu ekkért getur kostuligra tilverið á himni eður jörðu; hvílík æra, hvílík lukka og hvílík gleði má þá það vera, að meiga vera géstur að þvílíku borðhaldi! Hvílík hátíð — hátíðligust allra hátíða — má þá kvöldmáltíðar sakramentið álítast? og hafi Ísraelsmenn forðum, með gleði og þakklæti við Guð, fyrir hans líkamligu velgjörnínga haldið sínar offurmáltíðir; hvörsu þúsund stærri orsök höfum vér þá kristnir menn til að uppfyllast innilig-asta hjartans fögnuði, þegar vér sitjum að þessari Jesú Kristi holds og blóðs veitslu, og undireins til að inna Guði heitasta þakklæti, fyrir þá ómetanligu andligu velgjörnínga, sem hann oss í sínum elskúlig-asta syni Jesú Kristo veitta hefur, og hann í kvöld-máltíðar sakramentinu oss á hátíðligasta hátt heimilar og innsiglar. Já, ó hvörsu ómetanliga stór gjæði eru þetta? hvör fær verð þeirra makliga metið?

En þaug ypparstu meðal þeirra tel eg þessi eptir-fylgjandi:

1) Endurnýjan Guðs friðar sáttmála við oss fyrir Jesúm Kristum. Því jafnvel þó Guð frá sinni síðu aldrei brygdi sinn sáttmála, er hann í skýrninni

vid oss samdi, samt af því vér gaungum svo þráliga á grid vor vid hann, og þurfum því sáttmálann aptur og aptur ad endurnýa, (— hvad vér ad vísu svo opt gjørum sem vér fremsium rétta og sanna ydrun —), þá eigum vér þó hátídligast ad gjøra þad, þegar vér ætlum til Guds bords ad gánga; og er þá ekkért líkligra, enn ad Gud eins hátídliga endurnýi hann vid oss, og fullvissi um hans óraskanligleika frá sinni sídu, þegar hann, til innsiglis þar uppá, gefur oss síns elskuliga sonar Jesú líkama og blód; þann sama líkama, sem á Golgatha eittsinn fyrir oss offradur var, og þad sama blód, sem þar var úthellt, — gefur oss, seigi eg, þessa himnesku fædu til ad eta og drekka. En nú —

2) tel eg Jesú réttlætis tileinkun hinn annann stóra velgjørning, sem oss í kvøldmáltídinni veitist, sem náttúrliga flýtur af hlutteknìngu vorri í hans offri. Því þar sem vér af Gudi álitunst, svo sem vér sjálfir þessu offri offrad hefdum, tileinkast oss øll sú blessan, forþénusta og frelsi, sem þetta offur fær afrekad. Svo vér ekki einúngis verdum fyrir þess sakir lausir og kvittir vid alla vora synda sekt, eins og vér aldrei neina synd drýgda hefdum, heldur þar á ofan ødlunst nádar-tilkall til eilífs lífs, rétt eins og vér hefdum allt Guds løgmál haldid; já lagt meira af mørkum vid Gud í hlýdninni, enn vér vorum skyldugir til. Þennann nádar-rétt ávinnur oss tileinkan Jesú réttlætis, sem oss í kvøldmáltídinni sannarliga tildæmist, ef vér annars verdugliga til hennar gaungum. Loksins er —

Sá 3ji mikilvægi velgjørníngur, sem oss í kvøld-

máltídinni veitist, sá, ad vér líka sem inndrekkum í henni sædi eilífs lífs í sálir vorar. Eins og lífstréd í Eden var af Gudi plantad þar til þess, ad manneskjan, hefdi hún ekki syndgad, skyldi, med ad neyta af þess ávexti, varna sér líkamligs dauda og vomeina; hvörs henni var af Gudi fyrirmunad, eptir þad hún var í syndina fallin (— þar sífeld heilbrygdi og láugir lífdagar voru syndumspilltri skepnu eingin lukka heldur ólukka —); en nú er Jesús Christur aptur á móti ordinn sínum trúudum eitt andligt lífsins tré; svo hvør sá, sem, med réttu hugarfari, neytir af þess ávöxtum, á víst ad lifa eilífliga. Þessir Jesú lífs-ávextir frambjódast og berast oss einkanligast í hans heilögu kvöldmáltíd, þegar vér etum þar í braudinu hans blessadann líkama, og drekkum í víninu hans blessad blód; svo þad sannast þá, sem hann sjálfur seigir (Jóh. 6): „hvør hann etur mitt hold og drekkur mitt blód, sá hefur eilíft líf.“ Á þennann hátt kalla eg, ad einn sannur Jesú bordgéstur inntaki, í kvöldmáltídinni, sædi eilífs lífs í sálu sína, svo þad er aldeilis ómöguligt, ad sá deyi eilífum dauda, sem þad verdugliga medtekur. Því um krapt þessa himneska sædis þarf ekki ad efast, hvar sem þad fyrirhittir veltilreiddann akur; þad er: sannydrandi, sanntrúad, og í sannleika betrunarfúst hjarta. Því fyrirhitti þad ekki þvílíka jordu, kémur þad tómt til Guds aptur; eins og um hans heilaga ord, sem er líkrar náttúru, sagt verdur (Es. 55, 11), þar sem gálaus og ydrunarsnaudur heyrari á í hlut. Af öllu þessu sjáum vér þá, ad sannast þetta tvennt, sem ádur er sagt: fyrst, hvörsu hátignarlig og blessunar-

full stiptan ad kvøldmáltíd Jesú er; og þarnærst, hvílík skylda ad á oss liggi — bædi vegna stiptarans æru og vorrar eigin velferdar, ad tídka hana, og tídka réttiliga. Gjæsi Gud þad væri øllum audsært og ógleymanligt! Þá mundi þessi guddómliga veitsla verda bædi optar og andagtugligar rækt, enn því midur almennt skédur.

En ádurenn eg skilst vid þetta mikilvæga málefni, vil eg leifa mér ad minnast á eitt, áhrærandi þad heilaga kvøldmáltídar sakrament, sem ad minu áliti stórum auka má gildi þess og verdugleika í annara augum, og upþorfa til þess tídkunar. Þad er í því falid, ad þetta sakrament er, ad mér vyrdist einslags náttúrlig eptirmind sjálfs Jesú, þvilíkur hann var hér á jørdunni í sínu nidurlægingar standi; hvørja sína eptirmind edur líkingu hann eptirskildi sinni kyrkju, þegar hann ad sýniligum samvistum ætladi vid hana ad skiljast, og vikja þannig burtu frá henni um hríd. Ekki ólíkt og þá einn prints géfur unnustu sinni Contrafey sitt, vid hvørt hann ætlast til hún skuli skémta sér og dægur stytta, þegar hann blýtur frá henni ad ferdast í mjøg fjarlægt land, og hans apturkomu er ekki svo brádliga vid ad búast (Luc. 20, 9). Svo skyldi líka Jesú brúdur hafa þetta hans blessada sakrament sér til afbreyíngar (— já bædi til trúarstyrkingar og trúaræfingar —), allt þángad til hann sjálfur sýniliga kæmi aptur, til heims þessa, á ytsta allsherjar þingi, til ad taka hana ad fullu og ollu heim til sín, í ríki himnanna, og gjøra hana ad eilífu hluttakandi í sinni fullkomnu dýrd og sælu. En í hvørju tilliti ad þessi heilaga stiptan líkist sínum himneska

stiptara, svo hún kallast meigi eptirmind hans, sýnist mér heimfæra meiga, bædi í tilliti veru hennar og forlaga. Fyrst hvad veru kvöldmáltídarinnar snertir, þá er hún samanstandandi af tvennslags tegundum; annari jardneskri og sýniligri, nefniliga braudi og og víni; og annari himneskri og ósýniligri, nefniliga Jesú líkama og blódi, sem hid nákvæmasta sameinadar eru, og gjöra eitt heillt, á þann hátt, sem einginn fær skilid. Þetta er því líkt, á sídu vors blessada Frelsara, ad vera hans samanstód og -stendur af manndómi og guddómi, hvar af ordin er ein persóna; hvor leyndardómur er mannligri skynsemi ógrípanligur. En eins og manndómur Jesú var fyrir manna augum lítilmótligur, þar Jesús var flestum fátækum fátækari og fyrirlítligri, enda þó í þessum sama byggi oll fylling Guddómsins líkamliga (Col. 2, 9); eins er háttad þeim jardnesku hlutum í kvöldmáltídinni, ad þeir eru mjög lítilsverdir, og aldeilis ekki fyrir þeim ad gángast; þar ad eins einn moli brauds, og sem einn dropi víns, er þad heila, sem hvorjum gésti fyrir sig framreidt verdur. En framar ad seigja: eins og sá heili Jesús — bædi eptir guddómi og manndómi — er öllum jafnt, vondum og gódum, bædi þeim sem gagn hafa af hans híngadkomu, og ekki gagn — géfinn til endurlausnar; allt eins verdur þad heila sakrament — svovel í tilliti þeirra himnesku sem jardnesku hluta — jafnt géfid og útdeildt ollum bordgéstunum, óverdugum sem verdugum; og hinna vantrú afskilur ekki þá himnesku og jardnesku hluti, heldur enn þad, ad þessara trú samteingir þá; ney, hvorutveggja þetta hángir af Guds

fríu náð, sem mannanna hæfi- edur óhæfi-ligleiki kann hvorki að vana né verka.

En nú svo sem hin heilaga kvöldmáltíð er sínum himneska hofundi lík í tilliti verunnar, svo er hún í annann máta, honum ei síður lík í tilliti forlaganna. Því, í fyrsta máta, eins og það að margir hneigsluðust á Jesú manndómi, á hans holdsvistar-dogum, og vildu ekki trúa því, að í þessum fátæka og umkomulausa Gyðingi frá Nazaret byggi Guðdómsins fylling — fylling Guðs almættis, alvitsku, réttlætis og heilagleika — eins hefur mörgum síðan orðið, að vilja ekki trúa því, að í þeim jarðnesku meðölum sakramentisins byggi nokkuð yfirnáttúrligt og himneskt, nefniliga Jesú líkami og blóð, og hafa þessvegna ekki tekið edur álitið þaug jarðnesku, nema sem teikn og merki hinna himnesku, og ekkért meira; og látist svo bera fyrir þeim útvortis virðíngu að eins í því tilliti, en skuldað hina, sem meiru trúa, fyrir hjátrú og hleypidóma. Þarnærst, eins og sumir, sem ekki trúa því, að Guddómur búið hafi í Jesú manndómi, látast þó, að orði kveðnu, heiðra hann, sem besta siðferðis kénnara og dygdaspeigil, svo bera og hinir margir einlæga virðingu fyrir Jesú kvöldmáltíð, sem þó ekki trúa, að í hennar útvortis meðölum meðdeilist annað, enn það sem með skilníngarvitunum sjest og smakkast, (— einkum þeir, sem við þann lærdóm eru frá úngdómi uppalnir, en ekki hafa frá hinum gagnstæða fallið til þessa —); þeir virða hana því, sem endurminníngar máltíð, haldna Jesú til heiðurs og þakklætis fyrir hans bestu velgjörðir, og sem speigil fornfæringar hans líkama og blóðs, fyrir heimsins

velferdar sakir. Í þridja máta, eins og margir þeirra, sem ad sönnu játa sig ad trúa, ad í Jesú persónu búid hafi fullkomliga Guddóms og manndóms sameining, og ad hann fórnfært hafi manndómi sinum fyrir heimsins syndir, hafa samt ekkert gagn af trú sinni, af því hún er daud, og verkar ecki fyrir kjærleikann; eins er háttad fyrir mørgum þeirra, sem trúa sameiningu Jesú líkama og blóds í brandi og víni í altaris sakramentinu, ad þeir hafa þó eingin søun not af því fyrir þad, þar þessi trú þeirra er, sem hinna, aldeilis líflaus og ávaxtarlaus. Og loksins flýtur þad af øllu þessu, ad þar þarf allann sama hæfiligleika og undirbúning til, ad medtaka Jesú sjálfann verdugliga, fyrir sinn Endurlausnara og árnadarmann, sem til þess ad medtaka hans kvøldmáltid, sér til sálar-nota; med því og líka ad øll hin somu not og ávextir fljóta, fyrir sálu manns, af verdugri medtekningu Jesú kvøldmáltídar, sem af lifandi trú á sjálfann hann, nefniliga syndanna fyrirgéfning, réttlætid og eilíf sáluhjálp; já, og jafnvel gétur sú andliga nautn, med trúnni einsamalli nægt manni til sáluhjálpar, þó sakramentid útvortis ei feingist gjæti, svo framarliga þad ekki af ásettu vanrækist, jafnvel þó madur verdi í kvøldmáltídinni á hátídligri hátt, um Guds nád í Jesú Christo, sannfærdur.

Allt þetta samantekid má nú kroptugliga auka vyrdingu þá, sem vér fyrir Jesú kvøldmáltíd bera eigum, og láta hana því verda oss óseigjanliga kjæra og dýrmæta. Því ef ein brúdur hefur stærsta yndi af og mætur á því minnisteikni, sem brúdgumi hennar hefur henni, sem í trygdapant, géfid, hvørsu má þá

sála sú, sem elskar Jesúm af hjarta, annars enn hafa allra stærsta eptirlæti af, og hjartanligustu laungun til, ad njóta hans heilögu kvöldmáltídar, í hvørri hún ekki ad eins sjer Jesúm, med augum trúarinnar fyrir sér afmáladann, heldur og finnur til hans elsku og ibúdar, midt í grunni sínum. O hvílík æra og hvílík lukka er þad þá, ad meiga vera géstur vid Jesú bord, hvar hann — þó ósýniligur sé — er vissuliga á stakligann hátt nálægur; hvar hans hold og blód eru bordréttirnir; hvar hans andi vill, med frábærasta slag, bera vitnisburd vorum anda um, ad vér gudsborn séum og erfingjar eylífs lífs; og hvar vér, med trúarinnar munni, inndrekkum frumgróda þess sama lífs, já medtökum eilíft líf, líka sem í samþrykktum kjarna.

Látum oss því, brædur og systur! bera allra stærstu vyrdinga fyrir máltíd þessari, og leitunst vid ad uppvekja hjá oss húngur og þorsta eptir hennar gjædum, og þessvegna med allra stærstu álúd og hreinskilni búa oss undir hennar medtekningu; þá munum vér finna og reyna, hvørsu dýrmætar og hvørsu kroptugar kræsingar oss í henni veitast, og oss munu þær, á andliga vísu smakkast sætari enn hunáng og hunángsseimur, og þykja meira til þeirra koma, enn margra stikkja gulls og silfurs. Þá mun syndarinnar eitradi sætleiki verda oss vidbjódsligur, og heimsins svæfanda yndæli foraktanligt. Vér munum finna oss mettast af vellystingum Gudshúss, og verda sem andliga drukknir af straumum þeim, er framstljóta af stóli Guds og lambsins. Þá munum vér af reynslu sanna, ad kvöldmáltídar sakramentis hátídin er sannarligasta

sálarhátíd, og sú yndisligasta af ollum þeim hátídum, sem vér hér í heimi holdum; já vér munum aldrei þykjast géta hennar ofopt njótandi ordid, og aldrei svo inniliga þakkad vorum Frelsara fyrir hana, sem vér viljum og makligt væri.

Vér viljum þá ad endíngu, í þetta sinn, reyna til ad inna honum, med adstod hans anda, þakklæti og lofgjørd fyrir hennar innsetníngu, en undireins bidja hann um nád sína til ad géta hennar verdugliga hluttakandi ordid; segjandi af hjartans grunni: Lofadur og blessadur vertú, Herra Jesú Christe! fyrir innsetníngu þinnar heilogu kvoldmáltídar, hvorja þú gafst þinni kristiligu kyrkju sem annann trygdapant, nær þú ætladir ad sýniligum samvistum hér í heimi, vid hana ad skilja. O hvorsu dýrmætt minnisteikn og eptirmind sjálfs þín — þvílíkur þú varst, þegar þú umgékkst hér á jordu, í voru holdi — má þessi þín máltíd oss vera; því eins og guddómsins fylling bjó í þínum, fyrir annara augum lítilsjorliga, manndómi, eins trúum vér, ad í máltíd þinni búi himneskir hlutir, undir útvortis lítilvægum sýniligum medolum; svo vor trú á þinn Guddóm í þínum manndómi, og á þinn manndóm vegna guddómsins íbúdar, má vid brúkun hennar bædi æfast og styrkjast; æfast vid opt ítrekada hátídliga íminndun þins algilda fridþægíngar offurs fyrir syndir vorar; en styrkjast, af brúkun þess medals, sem, eins kroptugt þad er, til ad fullvissa oss um þinn kjærleika til vor, eins kroptugt má þad vera til ad uppvekja hjá oss kjærleika til þín, aptur á móti. Æ. géf oss þá, blessadi Frelsari! géf oss nád þins heilaga anda til ad géta borid vidlíka vyrd-

ingu innvortis fyrir þér í þessari þinni minnismáltíd, sem vér vildum fyrir þér bera, ef vér feingjum þig med líkamligum augum sjeuann; því þad er víst, ad ef vér hana audmýktar- og andagtar-lítid brúkum, mundum vér allteins vid sjálfann þig breytt og móti þér tekid hafa, ef vér á þínum holdsvistardøgum lifad hefdum, og séd þig í þjóns mind þinni og nidurlægíngu. En ef vér tídkum hér réttiliga máltíd þína, má oss verda þad ad sømu sáluhjálpar notum, sem ad fá sýniliga ad sitja og gráta vid þína blessadu fætur, einsog hinn bersynduga fordum (Luc. 7, 37—48); sem ad grípa, med líkamans høndu, í þinn klædafald, einsog hin blódfallssjúka (Luc. 8, 43); sem ad herbergja þig í húsi voru á líkamliga vísu, eins og Zachæus fordum, (Luc. 19, 9); já, sem þad, ad þreifa med líkamans høndu á þínum pínslar-sárum, vard lærisveini þínum Thómasi (Jóh. 20, 27); svo vér þá, sem hann, gétum í fullvissu trúarinnar hrópad til þín og sagt: ó Herra Jesú, „þú ert Drottinn minn, og Gud minn!“ Veit oss í henni ad finna, hvad sætur og ljúfur þú ert, og sá sem nokkurn forsmekk sælu þeirrar í vorum hjørtum, sem þeir eiga lokfins í vændum ad njóta, er sitja munu til bords vid Abraham, Isaac og Jacob í ríki himnanna (Matth. 8, 11). Géf oss ad géta eins sannarliga etid og drukkid þitt hold og blód, med munni trúarinnar innvortis, sem vér, med munni líkamans, neytum þess helgada brauds og víns útvortis, í þína minníngu. Lát þessa himnesku fædu eins styrkja vorn innra mann í vorri reisu gégnum eydimørku veraldar þessarar, til þess himneska Zions fjalls, eins og fæda sú,

sem eingillinn fordum færdi spámanninum Elíasi, styrkti hann á ferd hans og flótta til fjallsins Horeb (1 Kg. bók. 19, 8); og nær vér á þeirri reisu vorri höfum lukkuliga háð orustu trúarinnar, móti vorum sálar-óvinum — holdi, heimi, djöfli og dauda, — og feingid þá sigrada, eins og Abraham fordum þá 4 konúnga (Gen. 14), æ kom þá, þú vor himneski Melchísedek, þú konúngur réttlætisins, Herra Jesú Christe! kom þá móti oss, og — eptir þad þú mettad hefir oss med braudi og víni nádarmáltídar þinnar hér í lífi, legg-dú þína ypparsta-presttligu blessun yfir oss, fyrir hvad vér viljum þá gjalda þér skyldugt þakklætis offur eilíf-liga! Heyr oss og bænheyr hérum, hæstlofsverdi Frelsari, vegna þíns kjærleika til vor og umhyggju fyrir sálum vorum! Amen! Amen!

---

# Fráſkýrſla nokkur um þá heilögu kvöldmáltíd.

Svo í hærſta máta kjær og mikilvæg, ſem Jeſú kvöldmáltíd mætti öllum þeim vera, er láta ſig Kríſtna kalla og ſeigjaſt á Jeſúm trúa, þá er hún þó og hefur af eingum trúarflokki í Kríſtninni verid eins inniliga rækt og tídkud, ſem af þeim ſvonefnda **evangeliſku Brædra Söfnudi**, er fylgir þeirri-augsburgiſku trúarjátníngu, ſem ýmiſt eru kalladir: þeir Mæhriſku brædur edur Hernhútar og fl., er fyrir ſína ſtakligu gudrækni og faſtheldni vid lærdóminn um Jeſú fullnægjugjörd, og hans trúudum, fyrir hennar ſkuld tileinkada réttlæti hafa, af vantrúudum heimſins ſérvitríngum, óforſkuldad álas lida hlotid.

Einn merkiligur danſkur preſtur, ad nafni Henrik Gerner, ſem til þeirra flutti ſig, hér um bil á midri nærſtlidinni öldu, og vann til þeſs, ad yfirgéfa ríkugligt preſtakall í hofudſtadnum Kaupmannahöfn, og dvaldi ſídan hjá þeim, ſem preſtur, um 7 ár, ſkrifur ſvoleidis um þá, í ádurſögdu tilliti:

„Eptir þad eg var til þeirra kominn, var, þann 13da Agúſti 1747, hjá þeim kvöldmáltídar-halds dagur, þared allur ſöfnudurinn gékk þá til Gudsbords, í endurminníngu þeſs ſem ſkéd hafdi þá fyrir 20 árum ſídan, þegar ſöfnudurinn í Hernhút hafdi, vid kvöldmáltídarinnar brúkun, notid ſtakligrar Guds nádar vitjunar; hvörja tilfelli ſvoleidis háttad var ſem

fylgir: Safnadarins forstødumenn høfdu i nokkra daga á undan leitast vid ad setja hjørtu fólksins í þad besta andliga ástand, sem møguligt var, (eins og sídur er enn-nú hjá þeim ad gjora), svo hvør og ein sála medal þeirra, fann sig — midt í sannri ydrun — ad vera fordæmingarverdann syndara fyrir Gudi, og girntist nú eingann hlut svo mjøg, sem ad innsigla med kvøldmáltídarinnar medtekníngu þann sáttmála, sem þeir allir samhuga, hvør med ødrum, fyrir Guds augliti gjørdt høfdu, nefnuliga ad verda ad øllu leiti eptirleidis Frelsarans eigindómur, og ad lifa og lida einasta hønum til dýrdar í heimi þessum. Og sem nú safnadarins oldúngar voru í þessum tilgángi samankomnir í kyrkjunni, frammi fyrir altarinu, og sem þeir ásamt søfnudinum øllum féllu á kné, og játudu sínar og þeirra syndir, og sídan midt undir inniligri hjartans hræringu, og med miklum tárafløllum bádu heitt og hjartanliga um fyrirgéfníngu þeirra hjá Gudi; og ad þeir, fyrir Jesú blóds og forþénustu krapt, mættu stadfastir verda eptirleidis, svo vel í elskunni til síns Frelsara, sem innbyrdis sín á milli; þá skédi þad, ad eptir þad presturinn hafdi þeim aflausnina bodad, og þeir sídan høfdu á móti Jesú kvøldmáltíd tekid: ad þeir allir í einum hóp urdu lika sem yfirstreymdir af frábærri Guds nád, fridi og gledi í heiløgum anda; hjørtun smeltust; tárin stódu í augunum, og sá eini leit uppá annann, og þeir vissu ekki hvørnig þeir ættu med ordum ad útlista þá Guds nád, sem þeim í hjartanu veittist. En annad enn-nú und-

arligra tilbar þá líka svo, sem var það: að tveir kvöldmáltíðar-bræður (svo kallast hjá þessu fólki allir þeir sem til Guðsborðs gánga), höfðu nokkrum dög- um áður nauðsynja sinna vegna, reist burt í vissann stað, án þess að vita, að söfnuðurinn ætlaði þann dag (sem var það ár sá 11ti sunnudagur eptir Trinitatis) til Guðsborðs að gánga. En á þeim stað, sem þessir menn staddir voru, framkom hið sama við þá, sem sjálfann söfnuðinn í Bertholddorfs kyrkju; og það gékk til fyrir þeim, eins og Eldað og Meðað forðum (sem umgétur 4 Mósísb. 11). Svo undireins og þeir sömu menn koma heim aptur til Hernhút, og áður enn nokkur hafði sagt þeim eitt orð um það sem tilborið hafði, spurðu þeir sjálfkrafa, hvað á þeim sama degi og sömu stundu dags tilborið hefði, þar sem þeir sjálfir kváðust reyndt hafa nokkuð stakligt í sálum sín- um. Í frá þessum tíma álíta bræðurnir sig einslags sérligann Guðs söfnuð, sem með Jesú eingin anda og náð helgaður og líka sem smurður sé; hvarfyrir þeir til endurminníngar hérum, gánga hvört eitt ár, þegar ekki nein stallig hindran í veiginn kémur, hvör með öðrum, til þeirrar heilögu Jesú kvöldmáltíðar, á þessum sama ársins degi.

Hvað annars þá heilögu kvöldmáltíð í sjálfri sér snertir, þá gjöra allir meðlimir Bræðra-safnaðarins, svo margir sem til Guðsborðs gánga, sér einga aðra ímindun um þetta sacramenti enn aðrir Lútherskir, nefniliga þessa: að það góða, hvörs þeir í því njóta, og sem þeirra blessaði Endurlausnari, skömmu áður

enn hann gékk til píslar sinnar og dauða, líka sem testamenteraði sínum trúuðu dýrðkendum, nefniliga sinn eiginn líkama, sem píndur var, og sitt úthellta blóð, þess njóti þeir, ekki að eins á yfirnáttúrliga og andliga vísu; ekki heldur hann veg, að líking ein og þýðing hafi hér stað; heldur njóta þeir þess á virkiligann og veruligann hátt, rétt eptir bókstafnum, allteins og innsetningar orðin hljóða; svo að þeir með og undir brauðinu eti af þeim sama, síns Frelsara eiginn líkama, sem á krossinum hékk og í grøfina var niðurlagður, sem og, að þeir með og undir víninu, drekki af hans eigin blóði; því sem í grasgarðinum og á krossinum útrann af hans heilaga líkama; og það sem skynsemin í þessu ekki gripið géti, það hondli trúin, og haldi sér fast þar við. Jesú eigið loforð og fyrirheit: „þetta er minn líkami; þetta er mitt blóð," er þeim hér, sem annað já og amen. Þeir hugsa: þar hann hefur sagt það, skyldi hann þá ekki giøra það? hafi hann talað það, skyldi hann þá ekki enda það? Hér af flýtur, að sú heilaga kvøldmáltíð er af Bræðra-søfnuðinum metin fyrir það allra stærsta og mikilvægasta hnoss, af øllu því sem hann hefur; hann hefur ekkert það, sem hann á nokkurn hátt taki eður meti til jafns við kvøldmáltíðina; svo þó að þessa safnaðar limir einusinni í hvørjum mánuði — það er 12 til 13 sinnum á ári — gángi til þessa heilaga sacramentis, þá finnst þeim þó, sem sannir Jesú kvøldmáltíðar bræður og systkyn eru, að á milli þess, sem þeir fá að neyta hennar, sé heil-lángur tími; þess-

vegna koma þeir í hvort sinn, sem þeir til hennar gánga, med stærstu lyst, girnd og laungun, til ad njóta þeirrá stóru og ómetanligu gjæda, sem þeir og allir sanntrúadir, hvort sem þeir tilheyra þeirra søfnudi edur ødrum — af henni hafa, edur ad minsta kosti, nær þeir þad réttiliga hugleida, af henni hast géta. En þaug gjædi eru nefniliga þessi: ad í og fyrir krapt þessa blessada sáluhjálpar medals, Jesú heil. kvøldmáltídar, ødlast þeir ekki ad eins nýa fullvissu um fyrirgéfníngu synda sinna og sáluhjálpina; heldur og einnig verda þeir, í tilliti líkama, sálar og anda, á allra nákvæmasta hátt sameinadir honum, sem, mídt í hans píslamind og fyrir sitt blód og undir, er, hér í heimi, þeirra adal-augnamid þeirra einasta huggun, þeirra girnd og allra stærsta eptirlæti; svo ad þeir þessvegna eru — eins og hann sjálfur sagdi — í honum og hann í þeim (Joh. 6, 56). Hér hafa þeir og svo eina mótgift, og kroptugasta læknisdóm gégn syndarinnar eitri, sem vér allir høfum eptir Adam í arf tekid, samt gégn þeim syndugu girndum, sem hafa í øllum oss djúpar rætur fest af náttúrunni; en sem fyrir krapt Jesú deydda líkama verda, hvort sinn sem þeir til hinnar heil. kvøldmáltídar verdugliga gánga, æ meir og meir krossfestar og deyddar (Róm. 7, 4). Já hér í þessari heil. máltíd taka þeir sanntrúudu inn líka sem sædi þess óforgeingiliga lífs, er á sínum tíma vara mun og blómgast, og bera ávøxt til hins eilífa lífs, eptir þessum Jesú eigin ordom: ad hvør sem eti sitt hold og drekki sitt blód, sá hafi

eilíft líf, eg hann muni uppvekja hann á effsta deigi, (Joh. 6, 54). Nú þó brædra-søfnudur þessi hafi mátt, og meigi margt óforskuldad álas lída, fyrir sínar trúarbragda meiníngar, sem þó aldeilis samhljóda heil. ritníngu, eptir þeirri augsburgisku trúarjátníngu, — af því heimsins børn hafa alltíd andstygd og ama á øllum þeim, sem af hjarta trúræknir eru, — þá hafa þó færstir vogast, (skrifar Gerner á sínum tímum), ad tala illa um tídkun hinna heil. sacramenta þeirra á medal, þar þeir ekki hafa gétad fundid hentugar skin-ástædur til þess. Í þaug 4 ár, sem eg hjá þessum søfnudi dvaldi, (seigir hinn sami), tídkadi eg, eins og adrir, Jesú kvøldmáltíd, i hvørjum mánudi, og þjónadi ad hennar útdeilíngu annara á medal; en í fyrsta sinn, sem eg kom til þeirra, fékk eg ad eins leifi ad vera nærverandi, og sjá uppá hennar tídkun. Því i brædra-sofnudinum er þad sidur, ad einginn fær ad vera nálægur og sjá uppá, nær kvøldmáltídin haldin er, nema þeir, sem þá nærsta sinn, þar á eptir, ætla sér til hennar ad gánga, edur og hvilíkur nýadkominn géstur, er menn hafa góda von um, ad, í tilliti síns innvortis ástands, hafa muni not af, þar nálægur ad vera. Annars var ekkert afbrugdid vid tídkun hennar hjá þessu fólki, frá því sem eg hafdi ádur sjálfur vanist og brúkad, þá eg var í vor frúr kyrkju í Kaupmannahøfn og annarstadar, nema þad, ad tídkan hennar fór hér fram, med lángt stærri audmýkt, andagt og gudrækni, enn annarstadar; því í þann litla mismun á ceremoniunum

tel eg sem ekkert varid, því þær eru manna setningar, (jafnvel þó madur alltíd skyldugur sé, ad fylgja þeim sem løgbodnar eru, í þeim søfnudi, hvar madur lifir).

En hvad uppruna brædra-safnadarins snertir, þá er hann ad vísu miøg gamall, þar hann er lika sem endurnýan hinna gømlu Valdensa, sem til voru, laungu fyrir Lúthers daga, vid hvørja þá sídar sameinudust svonefndir Hússitar, sem hvørutveggju héldu fast vid lærdóm trúarinnar á Jesúm Christ, eptir heil. ritníngu. En loksins vóru flokkar þessir settir í eitt frábært reglubundid ástand, af greifanum Nic. L. v. Zinzendorph, á fyrra parti næstlidinnar 18du aldar, hvørt sídan, fyrir Guds nád, hefur dásamliga vidhaldist, svo þessi søfnudr hefur verid til stórs sóma og uppbyggíngar í kristiligri kyrkju, og er vída um heiminn, í smáflokkum, útbreiddur.

Nú þó hann hafi af ýmsum nafn-kristnum sérvitríngum ámæli lidid, og jafnvel stundum offóknum mætt, hafa þó lika margir merkiligir rithøfundar borid honum besta vitnisburd.

Dtr. Büsching, yfir-consistorial-rád í Berlin, skrifar svo: „brædra-félagid er eitt undraverdt verk guddómligrar forsjónar. Í kyrkjuhistoríu þeirrar 18du aldar er stofnsetning þessa safnadar í Herrnhút, samt hans útbreidsla um allar veraldar álfur, einhvør stærsti tilburdur, sem setja má sérhvørn eptirþánkasamann í forundrun, og mun hann þó héreptir verda til en stærri forundrunar. Skrifad 21 Apr. 1781."

Sá fyrir sína skarpsýnu og djúplægu stjórnar-

þekkingu háttvyrdti Hra. F. C. v. Moser, skrifar í sínum athugasemdum yfir Fridrichs Wilhelms þess 2ars leifisbréf, gèfid þeim evangeliska brædra söfnudi 1790 í Manheim og Leipzig, svoleidis: „mér hefur ekki audnast sú eptirœskjanliga lukka ad verda medlimur brædra safnadarins. Af öllu hjarta vyrdi eg hann þó og elska, sem eitt gudsfólk; sem samfélag edalsinnadra, gódra, ypparligra, elsku- og heidrunar-verdra manneskna; sem rèttann söfnud sannkristinna; sem einslags mikitvægt og velgjörandi teikn vorra tída; sem brandmúr móti vorra daga antí-christíndómi; sem vaktara yfir þeim sáluhjálpliga lærdómi, um Jesú Christs fullnægjugjörandi fridþægingu í vorn stad; sem eitt salt og eitt ljós, midt í þeirri próteskantisku kyrkju, hvor alltid er meir og meir ad spillast og formyrkvast; sem annad ómetanligt athvarf og hæli fyrir margar þúsund manneskjur til ad géta umvendst og frelsast; sem adra hússtjórn edur stiptan í Guds ríki, fyrir eitt nýtt, lukkuligt og allareidu hér í tímanum sannfarsælt manneskjukyn; sem einslags lifandi roksemd þess, hvörsu möguligt þad sé, ad hreinn kristindómur og borgaralig stjórnar stiptan géti fylgst ad og sameinast; já sem annann plöntu-skóla edur verk-smidju til þess ad minda útvalin verkfæri, fyrir hvorra adburdi, ad Jesú Christs evangelíum ennú kunni ad útbreidast til margra gleymdra ættkvísla hér á jördunni, já til þess, ad heila veröldin lokksins mætti vidurkénna og tilbidja Jesúm, sem þann sanna heimsins Endurlausnara.“ Þessi eru nú áturnefnds Mósers ord.

Ymsra fleiri jafntrúverdugra manna vitnisburdi, um nefndann brædra-sofnud mætti tilleida; en þetta nægir, til ad sýna hvørn þeinkiþátt ad hans sonnu medlímir geymi; og reynslan þar ad auki sannar, ad þó sofnudur þessi hafi nú stadid meir enn í 100 ár, undir vina og óvina adgjætslu, þá er ekki dæmi þess ad nokkur syndari hafi sá, í hans félagi fundist, sem þurft hafi af yfirvaldi ad straffast, sem sannar þad: ad trúin á frelsarans fridþægingu, sér til réttlætis fyrir gudi, en ekki á sínar dygdir (sem er þessa safnadar lífslærdómur), gjørir ekki manneskjurnar andvaralausar (eins og mótstandararnir láta á sér heyra), heldur er hún þad kroptugasta medal, til þess ad minda sann-uppbyggiliga og góda samborgara; þar ed trú þessi — ef hún sann-lifandi er, — er kroptugasta medal til ad kveika elskuna til Guds og náúngans, hvør ein ad er rót og sædi til allra gudi þóknanligra dygda og mannkosta. O ad menn vildu eptir þessu taka!

---

☞ Evangeliskt Smárit frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi géfins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þaug edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þaug, ef vilja.

---

Kaupmannahøfn 1848. Prentad hjá S. L. Møller.